# HJÓNA VÍSUR

þann 14da Nóvember 1842.

---



*Lagid: Velkommen i din Ungdoms Lund etc.*

1.

Fyrri enn tími talinn var
Tilveru neinni hjá,
Náttúran fríd í fadmi bar
Frumefni stór og smá,
:,: Þad vard hid fyrsta þá :,:
:,: **Eldinum** lét hún andad frá sér verda. :,:

2.

**Eldurinn** sá um aldir flaug
Til alls er skapast má,
Um lífsins hvörja lædist taug
Svo leint ad einginn sá
:,: Og Manna hjörtun há :,:
Lætur hann sínum loga snortin verda.

3.

Því lifnar ástar eldíng heit
Svo opt í brjósti manns,
Því lifnar allt sem Veru veit
Vid varma Kjærleikans,
:,: Og skikkun Skaparans :,:
I þessum krapti allir þannig hlída.

4.

Því lifa ástar ljósin fríd
Sem loga á bordum hér,
Hvar Jardar rósa blómin blíd
Ad brjóstum Vinirner
:,: Vefja og velja sér :,:
Tvíeiniug Þrenn þar tekid hefur Sæti.

5.

Heill sé þér fagra Videy vor!
Vídfrægst í landi hér,
Þú sem vor frægstu Fedra spor
I fadmi þínum ber,
:,: Hugkátir viljum vér :,:
Þinna útsúpa Þrennra hjóna Minni!

6.

Þreföld tvíeiníng! þú sem oss
Vilt þessa gledi ljá,
Vér ydar fullu Krúsum koss
Svo kjæran viljum fá,
:,: Eldur upphædum frà :,:
:,: Hjónanna Skál med helgum Anda
Signi! :,:

S. Breidfjörd.

